# Agrip

# Gydinga og Kristnissøgun̄ar

handa

Námfúsum Unglingum á Íslandi.

---

fært í letur

af

P. E. Hialmarsen,
Studioso Theologiæ.




---

Kaupmannahøfn 1820.
Prentad hiá Bókþrickiara P. E. Rangel.

## Formáli.

Ad drottins ráð er undarlegt, en hann kém-
ur því öllu vel til vegar, um það sannfær-
umst vér, þá vér með gaumgiæfnu íhugunar
auga virðum fyrir oss, hvörnin hann frá
elðstu tíðum, hefir láted sér umhugað vera
að viðhalda sinni þeckingu og dyrkun með-
al mannkynsins igégnum svo margar tíma-
síða, og fólks-breitíngar, og á hvörsu dásam-
legann hátt hann hefir hagað því so, i gégn-
um margar aldir, að hans hreinni þecking,
og ávaxtarsamari dyrkun sem christinndómurinn
kénnir oss, um ærna hluta heimsálfanna so
brádt og kröstuglega útbreyddist, og það án

mannlegs veldis hiálpar vopna, þegar vér þetta náqvæmar yfirvegum, segi eg, gétur ecki hiá því farid, ad undrunarfull lotníng fyrir vorum trúarbrøgdum, vegna hvørra vidhalds og útbreydslu gud so margar dásemdir hefir ské latid, vakni í voru brjósti. En af sjálfri sér vaknar hún ecki hiá þeim, sem ókunnigt er um þetta; þad er ecki nóg ad sá verdi einasta var vid hana sem innvigdur til bóklegra mennta hefir gétad lesid sér hana til úr ømsum margordum ritum, alþýda ætti ogso naudsynlega ad finna hana, og þad ecki fyrst á sínum elli árum, þegar margt vill fyrirglepja, og tíminn máské er ofnaumur til þess; á úngdóms árunum ætti því til þess ad sá, sem á fullordins og elli árunum ætti ad uppskérast. Eg allít því nytsamlegt ad børn undir eins og þau læra sinn christindóm, sái meiri greind á christi-

inndómsſøgunni, með ſtuttu inntaki hennar, enn medal almúga týdkaſt, hverr máti í fleſtum donſkum barna kénnſluſkólum er brúkadur; enn eg veit ecki til ad hagqvæm bók til þeſs ſé ennnú prentud i landi voru. Þad er ecki þarfyrir min meining ad þeſſi minn litli tilraunar ritlingur megi kallaſt verdugur í tilliti til ordbragds ad læraſt utanbókar; enn hans innihalld vona eg í morgu ſé lagad eptir þeim ágripum ſem í donſkum ſkólum týdkaſt, ad víſu máſké ſumſtadar ſjølyrdtari, og þad þá á þeim ſtodum ſem eg af reynſlunni var ſannfærdur um ad þurfti á því ad halda. Eg játa ritlingſins ófullkomlegleika, þótt eg kappkoſtad hafi ad koma í veg fyrir hann ſo mikid, ſem minn tími deildur milli fleiri anna leiſdi mér; enn óſk min og von er ſú, ad landsmenn minir taki mér hann ecki í lakari meiningu enn eg

reit hann, og fyrir því verdi ecki strángir dómarar; þar fáir eru smídir í fyrsta sinn. Enn yrdi frumgródi minna fyrirtækja fósturjord minni, enni kjæru, til nota, mundi störum gledja mig, og gefa nýann dug.

Ritho sundurinn.



## Agrip af Gydínga-søgunni.

Jøndverdu edur hérumbil 4 þúsund árum fyrir Krists fædingu skóp almáttugur Gud himin og jørd og skryddi jørdina hvørttveggia med grøsum og ødru blómi svo og med qvikindum og fuglum, og þá hann hafdi giørt hana byggeliga og hentuga mannkyninu til farsælligs Lífs, skóp hann ad lyktum karlmann og konu, hét hann Adam, enn hun Eva, Gud fékk þeim bústad í forkunnar føgru lands plátsi, er ritníngin nefnir aldingardin Eden og syndi þeim alla þessa hluti og gaf þeim þá til vidurlífis og forráda. Einnin vottar heiløg ritning ad Gud hafi skapad mannin eptir sinni mind, giædt hann med skinsemdarfullri sálú og friálsum vilia og herradæmi yfir øllum skepnum. Alt lagdi Gud þeim í hendur ad þau nióta skyldu sældarlífs í fullu frelsi, leyfdi þeim ad eta ávexti af

al

ellum þeim triám sem voru í aldingardinum, ad einu undanteknu er nefndist skilníngstré góds og ills, vid hvørju lá daudasök ef asætu. Stutta stund varadi þetta sælusulla sakleysis tilstand, því ritníngin vottar: ad þau létu þess slæga høggorms umtølur og egin fýsn tæla sig til ad brjóta guds løgmál, og neyta af averti þess trés sem þeim var bannad, hvørs fegurd blindadi augu þeirra. Strax upplukust nú augu þeirra, og þau fundu med sjálfum sér ad brotid høfdu gudsløgmál, greip þau ótti mikill og hrædsla, ad þau føldu sig fyrir drottni milli triánna í aldingardinum; þeirra sakleysi var nú tapad, og því hlutu þau eptir guds skipan ad yfirgéfa þetta fríóssama landspláts og leita sér atvinnu og lífsforda í sveita sins andlitis, og fleiri armædur máttu þau reina.

Þá stundir lidu framm eignadist Adam og Eva 2 sonu, hét sá eldri Cain, en sá yngri Abel, drap Cain bródur sinn, og mátti hann því fara landflótta; Seth var einnig Adams og Evas Son, hann var ættfadir margra afkomenda og kéndi børnum sinum sanna guds dyrkan enn eptir hans dauda úrættust afkomendur hans, þeir gódu spilltust af sambud enna oguðlegu, og gleimdu Gud; þegar Gud sá mannanna illsku, og ad hugur þeirra ætíd var hneigdur til ens illa, þá aqvardadi hann ad afma alt mannkyn af jørdunni, ad undann teknum Nóa og hans ætt sem trúlega dyrkadi gud. Gud skipadi því Nóa

ad byggia sér stóra ørk í hværri hann siálfur med sinni ætt, og tiltekinni tølu, af allra handa dýrum og kvik kendum sem ecki gátu lifad í vatne skyldi frelsast; Nói hlýddi Gudi og allar manneskiur og dýr sem ei vóru i skipi þessu fyrirfórust í því óttalega vatnsflódi, sem Gud lét koma yfir jørdina, og almennt kallast Syndaflód. Þegar jørdinn var aptur ordin þur og byggelig, vidur kéndi Noa þakklátur guds nádar varatekt á sér, og offradi honum þacklætis offur, sem hønum var velþóknanlegt, og hét Gud hønum nu, ad han ei optar vildi eydileggia jørdina fyrir mannsins skulld. So lengi Noa lifdi vidhélt hann þeirri sønnu gudsdyrkan, medal sinna afkomenda; enn epter hans dauda, tók mannkynid ad falla til afgudsdyrkunar, og hiátrúar; þær verur sem menn álíta ad vera Gud hlutu ad vera sýnilegar og á þreifanlegar. Sól, túngl og stiørnur sýnduft þeim addáanleg, ja heila himinhvolfid, þess so velgiørandi sem óttalegu verkanir á jørdunni kveiktu hiá þeim þacklætis og otta hræringar vid þad; þeir gleimdu þeim ósýniliga náttúrunnar herra og skapara, og tilbádu þessa sýnilegu hluti í hans stad; alt of háir þánkar, sem þeir giørdu sér, um andada menn, er annadhvørt vóru kynþátta fedur, forstødumenn, løggiafarar, eda høfdu á annann hátt gagnad folkinu, orsøkudú, ad menn veittu þeim gudlega tilbeidslu; engladyrkun tídkadist ogsvo, er leiddi til afgudadyrkunar, og þessi var upprunnin

í Caldæa, og udbreiddist til nalægra landa og tyngadist allra helst í Egyptalandi, hvar menn uppreistu skyttur, musteri og olturu þeim sialfvsldu gudum til dyrkunar. Midt i þessum villu dóms og hiátrúarmyrkrum, hagadi gud því so, ad í því hiátrúarfulla Caldæa var einn gudhræddur dyggda vin af Sems kynþætti, Abraham ad nafni, hann let sig ekki tæla af annará vondu eptirdæmum, enn dyrkadi þann sanna Gud med hreinu hiarta og rádvandum lifnadi. Eptir guds skipun yfirgaf hann Caldæa og þá hann var 77 ára, fluttist buferlum til Canaans-lands herumbil 2000 árum fyrir Kristi burd, þar lifdi hann hyrdaralifi (nomadisku) ásamt sínum fiölmennu ábángendum og med hans atorkusemi júkust efni hans, landsins innbyggiarar heidrudu og elskudu hann fyrir hans blídlindi og dánumensku, þessir nefndu hann hinu Ebreska sem þyder: sá sem er handan yfir Ephrat kominnu. Abraham let sig og alla karlkyns í sinu landi umskéra til stadfestu, ad hann og hans fólk skyldu tilbidja enn sanna gud. Addáunarverd var Abrahams tilhlydrunarsemi, sem hann syndi bródur syni sinum Loth, þegar beggia hiardir hofdu ecki beit nóga, og ágreiningur kom milli beggia fiárhyrdara, þá lagdi Abraham honum i sialdsvald ad kiósa sér þad landspláts er honum líkadi best, nytti Loth sér af því tilbodi, og sidan þegar Loth af nálægum kongum var fánginn, frelsadi Abraham hann

og gaf honum eignir sinar til baka, samt Sodoma kongi. Abraham bar umsorgun fyrir ad hans eptirkomarar vrdu ens sanna gudsdyrkendur, sem siálfur hann; hann hafdi eignast ein son, Isaak ad nafni. Abraham vildi ecki ad hann gifti sig med enum heidnu Cananita dætrum, skipadi því þénara sínum Eleazar ad velja Isaak konu af kynþætti sínum sem bió í Mesopotamia (á millum fliotanna Tigris og Ephrat) Eleazar leisti erindid vel af hendi, og færdi Isaak Rebekku Betuels dottur, þau lifdu gudræknu lifi, og eignudust tvo sonu Esau og Jacob. Esau var ósthýrilatur, þrætugiarn og sérlindur, gifti sig med heidingianna dætrum mót foreldra sinna rádi og vilja; hann lagdi sig eptir Jagt; enn Jacob sem var hæglundadri slo sér til fiárræktar; enn þared frumgetningar retturinn tilheyrdi Esau, og Jacob á óréttvísann hátt fyrir modur sinnar tilhlutan og hiálp keypti hann af hónum, mátti hann flya fyrir honum til modur brodur síns Labans, sem fyrst tók vinsamlega vid hónum og lofadi honum yngstu dottur sinni Rachel, efter 7 ára þiónustu, enn Laban héllt ecki loford sitt, helldur gaf honum sína eldri dóttir Lea, so Jacob mátti þióna annur 7 ár fyrir Rachel, ámedann blessadi gud Jacob med fiølda qvikfenadar; enn þegar Laban og hans synir, øfundudu Jacob héraf, og breittu svikfamlega vid hann, flutti Jacob sig

burt þadan med ollu sínu, og hellt til Canaans-land, á leidinni njósnadi hann ad brodir hans Esau dró á moti honum vid 400 manna, þetta jók honum ótta mikinn so han bad til Guds um hjálp, hann sendi brodur sínum stórar giafir til ad mikja hann, Esau sættist vid hann, og tók bródurlega móti hanum, og þeir skilduft med mikilli vináttu. Jacob gat 12 Syni, fra hvørjum Israelitar eru komnir og var hvor þeirra ættarstofn einna 12 kynqvíssla þiódar þessarar; Jóseph hét einn þeirra og var einn brædranna hønum yngri; hønum unti Jacob mest sona sinna, var og sveinninn hønum nærsta hlídinn og fylgispakr; þad var ei heldur trútt um ad han saadi eptir brædrum sínum, fyrir þá sok feingu þeir óþokka á hønum og misunntu hønum ástar Jacobs og eptirlætis, þeir tóku því eittsinn Joseph høndum og ætludu ad fyrra hann lífi, en Ruben, hinn eldsti þeirra brædra hamladi nidingsverkinu og rédi þeim til ad kasta hønum í gryfiu nokkura, í von um ad han giæti hønum seinna undankomid, þeim brædrum úafvitandi. Um sømu mundir fór kaupmannalest, er ætladi til Egyptalands, nálægt þessum stodvum. Þad sáu Jacobs synir og þókti fysiligt á fá nokkud fyrir Joseph, þeir tóku han því úr gryfiunni og seldu hann sem rans mann kaupmønnum er høfdu hann med til Egyptalands og seldu hann þar optur mansfali uns hann kom í eigu

Potifars, er var höfdingi mikill og handgengin konungi. Í landi þessu yfirvann han frækiliga margar freystingar og mannraunir saklaus og med guds hjalp og forsiá sinni komst i Egyptalands kongs hylli, og ødladist stór vøld, sem hann hagnytti til ad safna korni i velgeingnis árum til eptirfylgiandi hallæris ára, hvarmed hann ei einasta frelsadi Egyptaland fra þungri hungursneid, helldur og fleiri nærliggiandi lønd, og ættfólk sitt fra Canaan, sem nu flutti þángad, og þádi af haunm eitt litid landsplats sem nefndist Gosen, millum Nil fliótsins og raudahafs, enn þegar Joseph var andadur, og fylgiandi kóngar gleimt høfdu hans velgiordum tóku þeir ad þjá Israelíta, med erfidi og þungum alógum, því þeir óttudust ad Israels folk, sem fiølgdadi so miøg yrdi sér yfirsterkara og giordu uppreisn því baud kóngurinn ad øllum þeirra sveinbørnum drekt væri í nilfliótinu; Hión nockur vildu forda syni sínum, enn gátu þad ei leingur enn í þriá manudi, þa t gdu þau hayn í einn bikadann reirkistil som þau logdu í nilfliótid og fastbundu vid sefid, hvort um ad einhver mundi myskun á giera, nú lét sig guds fødurlega umsorgun í liós, því skommu seirna vildi kóngsdotturin af Egyptalandi bada sig í fliótinu, hun sá nú kistilinn í sefinu, og lét sækja hann, og þá hún lauk honum upp sá hún þar grátandi barn í liggia; nú baud barnsins systir kongs.

bolttrinni ad vera uti um barnfóstru, hvad hún þádi; nú vard módurinn sjálf kongsdotturinni óvitandi barnfóstra. Þegar Moses, þetta nafn feck hann, vox nú fiskur um hrygg, kom hann til Egyptalands hoffs, og nundi þar visindi, því Egyptaland var þá visdomsfæte, so naqvæmlega vakir gud yfir þeirra lifi er han ágvardad hefir til ad efla sanna dyrkun. Mosis velvild til Israels fólks let sig snemma í liósi, og tidum heimsókti hann þad, einnsinni sá hann Egyptskann mann berja einn Israelita, þetta þoldi hann ecki, og í brádrædi sló enn Egyptska í hel, enn þá hann merkti ad þetta var ordid uppvist, flúdi hann 40 ára ad aldri þadann til Madian í Arabiu, hvar hann uppihelt sér í 40 ár sem sjárhyrdir hiá kénnimanni nockrum Jethro ad nafni. Hér opinberadist gud hónum og baud honum ad ferdast til kongsins af Egyptalandi, og beidast af hónum Israelitanna frelsunar, hvad hann giordi, med adstod brodur sins Arons. Þótt hann nu sannadi med órækum kraptaverkum ad han var sendur af gudi vildi kongurinn ecki trúa hónum, þared egyptskir tsframenn toldu honum trú þarum, ad þeir glætu giört slikt, enn seinast þegar gud let alla Egyptalands frumburdi deja á einni nóttu, skelfdist kongurinn og gaf leifi til ad Israelsfólk, sem nú var meira enn 2 millionir reisin burt, samt ydradist hann þessa og drô því med ógrynni

hers eptir þeim og nádi þeim við raúdahafið hvar þeir voru innispertir af fiöllum á bádarsídur, höfdu og herinn á baki sér, nu lét gud sterkann austanvind blása þá heilu nótt so hafid skiptist í tvo hluti og stod sem veggur til beggia handa, so Israels fólk geck þar þurrum fótum yfir, enn Pharao þegar hann sömuleidis vildi keira þar yfir um, druknadi med öllu sínu herlidi. Þá Moses á þennan hátt hafdi frelsad landsmenn sína frá hardýdgi og afurkostum Egyptalands konunga, þótti honum ei rádligt strax ad flytia buferlum til Canaanslands og taka þar bólfestu; því hvörki var þar greidt adgaungu, med því Cananitar vóru illir vidureignar og höfdu mikid lid, og ei vóru heldur Israelitum hentug svo bráð breyting og umskipti á högum þeirra og háttum. Eptir svo margra ára þrældom var þeim ad mestu þrotinn dugur og vidgæm tilfinning frialsrædis, so þeir hvörki vóru nú færir um, ad eiga í orustum, edur njóta borgaralegrar farsældar. Þeirra sidferdi og hugarfar var so giörfordjarfad ordid i Egyptalandi, þeir höfdu inndruckid so margar heidnar trúarbragda meiningar og sidi, ad þeir voru enn nú óhæfir til ad vera fólk, medal hvörs guds sanna dyrkun ofölskud geimst giæti, í þeim villu myrkra tidum, og langt var fra ad þeir væru so einbeittir í sinum trúarbrögdum, ad þeir letu sig ecki afvegaleida af þeirra heidnu nágranna

þjóðum til afguða dýrkunar. Þessvegna þóknaðist þeirri alvísu forsjón, sem so nagvæmlega bar umsorgum fyrir þeirra kjörum, að láta þá eptir Mosis leiðsögn ferðast víðsvegar um einar arabisku eiðimerkur í 40 ár, til þess þeir yrðu hæfilegir til að byggia það fyrirheitna land, og á meðann þeir voru í eiðimörkunni, auglýsti Guð þeim so opt og á so margann hátt sína naqvæmu umönnun, að þeir hlutu að gánga úr skugga um, að hann var sá einasti sanni Guð; Moses var maðr spakur og hvorjum öðrum betur viti borinn og lögspakari. Nockru eptir að þeir slutt höfðu úr Egyptalandi; setti hann lög og gaf landsmönnum sínum ymsar reglugiörðir, er miðuðu til að grundvalla stiórnarveldi Israels fólks, olla viðbiódds hiá því fyrir afguðum og skúrgaðum hiátrúar sullra granna. Sú var reglugiörð hans:

1) Fólkið skal dýrka þann einasta sanna Guð.

2) Jarðrækt skal vera uppspretta fólksins heilla; þessvegna skiptist Canaansland millum enna 12 Israels kynqvísla og sérhvörrar kynqvíslar jarðir skiptust til vissra ætta, sem vera skyldu þeirra óðöl um aldur og æfi.

3) Israelsfólk skyldi vera ein þjóð, er hefði ein þjóðlög og ein trúarbrögð og skyldu ei annan konung hafa, enn Guð alleina er þeir kölluðu Jehóva.

Sérhvör þeirra 12 Ísraels kynqvísla hafdi sína eiginn forstödumenn, undir hvörjum ættanna œldungar stódu; þessir vóru fólksins fulltrúar, sem á árligum þiódfundum, og ödrum samkomum skyldu tala þeirra máli, og frammbera þeirra naudsyniar, þarad auki innvígdi Moses ráð af œldungum, er giæta skyldu ad lögum hans fylgt væri og skéra úr öllum stórmálum. Í 40 ár var Moses oddviti síns fólks, enn í þad fyrirheitna Canaansland kom hann ecki, því so var af Gudi tilskipad; þegar hann vissi, ad hans endalykt var nærri, so qvaddi hann sitt fólk, sem deyandi fadir blessar sín börn, og óskar þeim allra giæda, so breytti Moses vid Ísraels börn, hann áminnti þau, fyrir sagdi þeim, hvad fyrir þeim lægi, gékk sídann uppá eitt hátt fiall, í grend vid ána Jórdan hvadann siá mátti yfir Canaansland, undradi hann mióg fegurd þess og deydi þar. Júdar gátu aldrei fundid legstad hans. Eptir dauda Mosis giördist Josua forstióri Ísraelsfólks og færdi þad inn í Canaansland, átti hann þar orustur margar vid Cananita og hafdi jafnan sigur; á 6 árum lagdi han gydínga land undir sig og vann 31 smákónga, skipti sídann landinu millum kynqvísla Ísraels barna, og lifdi þareptir sem landshöfdingi yfir þeim til dauda dags, og bar umhyggiu fyrir ad þeir hélldu þeirri sömu gudsdyrkun. Eptir hann giördist hinn ypparsti prestur

sá ædsti höfdíngi í ríkinu; og einasta þegar þjódinn var í vanda stodd og herskátt var í landinu, völdu menn ýfirordulega oddvita, sem med ótakmarkudum myndugleika var herstióri í bardögum, samdi frid vid nábúa, og hadi á hendi ríkisstiórnina so leingi hann lifdi. Þvílíkir stiórnarar, sem í stærstu naudsyn valdir voru, nefndist Dómarar. Í þessu tímabili vóru Ísraelítar mjög hneigdir til afguda dýrkunar og annara lasta, sem þeir numdu af nágranna þjódunum, þeim heidnu Cananítum, er þeir höfdu þyrmt um of, (þar þeir aldrei sátu á sáréhöfdum) Gud lét þá þessvegna oft koma undir þessara og philistéanna ánaudar ok; enn þegar þeir ydrudust og betrudu sig, fríadi hann þá fyrir hönd hmiðra af dómurunum; sá seinasti þeirra var Samuel, vís og valinkunnur madur, er átti ógudlega syni; enn þegar hann tók ad eldast, óttadist fólkid, ad hans embætti falla mundi í hans ógudlegu sona hendur, þessvegna beiddist þad med einum munni einvaldsstiórnar, eins og nábuar þeirra höfdu. Þeim var þá ogso géfinn kongur eptir hérumbil 350 ára domarastiórn Þótt ei hefdi hann so ótakmarkad einvaldsdæmi, sem flestir austurlanda hardstiórar; því enn þá gat öldunga rádid, og kynqvíslanna formenn, med fullum mindugleik forsvarad borgaraleg fríheit, Moses ríkis-rádsform (constitution) og sérilagi trúarbragdanna heilagleik. Í rúm 100 ár var allt ríkid undir

einvaldsstjórn, undir Saul, sem var þeirra fyrsti kongur, David og einkum Salomon stod Israels ríki i besta blóma; enn fyrir þvi Róbóam Salomons son ecki vildi bænheyra fólkid med skatta og ánauda linun, giördist upphlaup, so 10 ættqvislir brutust undan hlidni vid hann, og tóku sér Jeróbóam til kongs, hvort ríki sidann kalladist Israels ríki, enn kongssetrid var Samaria; 2 kynqvíslir áhángdu þeirri gamlu kónga ætt og ríki þad nefndist Júda ríki, og kóngssetrid var Jerusalem; sífeldt ósamlyndi drottnadi millum þessara ríkia. Israels ríki styrdu 20 kongar hver eptir annann, vóru flestir þeirra óguðlegir afguda dyrkarar; þad stód í 250 ár, enn Juda ríki stjórnadist af Davids ættlegg rum 100 ár og leingur. Enn saga beggja þessara ríkia, sýnir oss hryggilegt dæmi guddómlegs straffs á þeim þjódum, sem lifa lastafullu liferni, og ecki vilja taka advarunum til betrunar. Gud sendi frædara og spámenn einn eptir annann til Gydinga fólks; ýmist lét hann blídlega áminna þá ad láta af þeirra afgudadyrkun, og ugglevsi, eda hann lét hardlega hóta þeim straffi, nema þeir vildu betra sig; stundum sendi hann þeim ógiæfu; enn þetta var allt forgéfins. Þessvegna heriadi Salmanassar, Assyriu kongur Israels ríki, og flutti þess seinasta kóng Hoseas, ásamt flestum hans undirsátum, siotradan til

Assýríu, og þannig geck Ísraels ríki til grunna eptir 254 ár.

Eckert var rimilegra, enn að Júda ríkis þegnar létu sér þetta sjálf í lega dæmi að varti adi verda, og betrudu sig; enn þeir skeittu eckí þessari guds advsrum, edur hótun: ad nema þeir umvendtu sér, skyldu þeir rekast úr ríki sínn, í framandi land, og sundurtvístrast millum siandmanna sinna. Þessvegna hitti lika guds rettláta hegning Juda ríki, seinasti kóngur þeirra Zedekias, var ngglaus kóngúr. Nebucadnesar, Babylonar kóngur, hvsrjum Zedekias var skattskyldur, enn vildj afkasta hans herradæmi, ysirfell hann, med ógrynni hers, inntók Jerúsalem, efter tveggia ára um sátur; musterid var rænt og brennt, stadurinn eidilagdur saklaus bsrn, hrum gamalmenni og verjulausar konur vóru med grimdarfullum atburdum lislátnar. Zedekias var neyddur til ad horfa á medan, sll hans bsrn voru líflátin, þará eptir voru hans augu stúnginn út med glóande járni, hann fisrradur og fluttur til Babylon. Flestir borgar innbyggiarar voru reknir eins og fé til Babylon og einasta fátækir aumingíar urdu eptir í Palæstina. Med svo ógnarlegum atburdum féck ad sidustu sgso Júda ríki enda, þá þad stadid hafdi 387 ár eptir ríkisins deilingu, og þessvegna 137 ár leingur ein Ísraels ríki, á þennan hátt var synd og óguðlegleiki pottur og panna til

ríkjanna eydileggíngar. Einnin gétum vér, þá vér lesum þá eldri gydínga sögu sannfærst um, ad sá mildi, miskunsami mannanna fadir Gud, ecki sídur sónir heillri þjód, enn einni ætt eda manneskju út af fyrir sig líkn eftir hegning, þegar menn ydrast sinna synda og endurbæta sinn lifnad; því eptir ad Jerúsalem hafdi verid 70 ár í eydi, og Gydíngar jafnlengi höfdu verid í útlegd, giördi Gud enda þará á þann hátt, ad kóngarnir Cyrus og Darius gáfu gydíngum leyfi til ad ferdast heim til síns födurlands, byggia musterid á ný, og byrja sína fornu gudsdyrkun og landsstjórnarform, þó soleidis, ad þeir vidurkéndu enn persiska einvaldsherra sinn yfirmann, og fengu af hönum jarla (landsdómara); en ei allir Gydíngar nýttu sér af géfnu heimferdar-leyfi, því ej hafdi illa verid med þá farid i þessari þeirra herleidingu, þeim gafst jafnvel tækifæri til at afla sér fiár, þeir sem ej vildu ferdast heim fiskktu heimfarendur med fégiöfum. Ad Persar breittu so gódmótliga vid Gydínga, er rímilegt, ad hafi komid þaraf, ad Persar jafnvel þó þeir væru heidinglar, hötudu margra guda dyrkan, og hiátrú, þeir heidrudu sol og elld, sem jarteikna attu skaparans alveldi; þeir trúdu á tvær máttugar verur, adra góda, og hina vonda Orosmasdes og Ahriman, sem ætíd vóru ósamlyndar, frá hvörjum þad góda og illa í heiminum hafdi sin upptök. Þad fólk, sem eins og

Gydíngar hötuda margra guda og bǽtta dyrkan einś og þeir, hlaut því ad verda þeim gedþeckt, ad þad hafi líka sked, sannar Cyrusar gódvild mót Gydíngum, og óeginn gyrni, sem so sialdann er ad finna hia sigurvegurum, því hann gaf þeim líka leyfi til ad flytja med sér, þau silfur og gull: kér sem tilheyrdu musterinu, og sem fyrrverandi Assyriu kóngar brúkad höfdu í gieſtabodum til ad stæra sig af.

Serubabel, af konúnglegu kyni, og eldsti prestur Josua, flutti nú med 42360 manna af gydingum til Gydingalands. Samaritanar sem ádur heyrdu til Israels ríki, vildu eiga þátt í musteris byggíngunni, hvörju þegar gydíngar þverneitudu, hindrudu þá á margann hátt medan á byggíngunni stód; loksins vard musterid bygt innann 20 ár. Hinn skriftlærdi Esra kom þaráeptir, og lagadi allt ad Mosis lögmali, hvort han útþýddi opinberlega fyrir fólkinu, og menn meina hann hafi samannsafnad og nidúradad gamla testamentisins helgu bókum, í þá ordu sem þær eru nú, því eptir hans daga var eckert skrif inntekid í Bibliuna. Serilagi áttu gydíngar sína vidreisn Nehemias ad þakka, hann var kommin í hyllí Artaxerxis kóngs í Persiu og var hans skénkari; hann sókti um leyfi til ad ferdast til gydíngalands, og ecki einasta feck þad, helldur ogso feck konúnglega adstod til borgarbyggíngarinnar; med mikilli árvekni og alvarugéfni

framqvæmdi hann áform sitt, hann var óheiginn giarn madur, kappkostadi ad tyrirbyggia skur og styrkja trúarbrøgd og gudsdyrkan. Enir ædstu prestar stiórnudu nú landinu og innkrø'du skatta, enn stódu undir persiskum jorlum herumbil í 200 ár; enn þegar Cyrusar veldi var undir lok lidid, komu þeir undir herradæmi Alexanders hinns mikla, er braut undir sig stód og ríki vídsvegar í Asíu, hann gaf Samaritönum leyfi til ad byggia musteri á fjallinu Garizim, af hværiu enn nú fremur reis hatur milli þeirra og Gydínga. Annars var Alexander mildur vid Gydínga, sem adrar sínar yfirunnu þjódir; enn hann lifdi ei lengi og Ptolomæus Sóter, Alexanders Herstforingi, sem hlaut Egyptaland, inntók Gydíngaland og Jerusalem, og flutti meira enn hundrad þúsund Gydínga burtu til Egyptalands, hvar þeir stórum fjølgudu, einkum í Alexandríuborg, og ødludust þar margsháttar einkarétt og frelsi; þeir máttu ydka sín gømlu trúarbrøgd, og lifa eftir sínum gømlu løgum, undir þeirra ædstu presta tilsión. Ptolomæus Philadelphus gaf Gydíngum lausn og frelsi og lét snúa enu gamla Testamenti á gríska tungu, hvør útlegging kølluð er hinna sjøtigu. Þeir konúngar sem eptir hann komu, breittu hardliga vid Gydínga, hvørsvegna þeir vildu heldur þióna hinum sýriska kóngi, Antiochus enum mikla, sem í fyrstu fór vel med

þá, enn hans sonur og eptirmadur Antiochus Epiphanes vildi med grimdarædi neyda Gydínga til at taka heidna trú, so fólkid giordi uppreisn móti hönum, 170 ár fyrir Krist; þa ſtédi þad, at Matathias Prestur med sonum sínum Judas, Maccabæus, Jonathan og Simoni edur sem bibliann nefnir þá, Maccabæar, gripu til vopna, vörduſt drengiliga og frelſudu landsmenn sína og trúarbrögd frá geigvænligum áhlaupum og óþolandi hardsdgi; til þacklætis merkis fyrir födurlands elſku og manndóm þeirra fedga, seldu Gydíngar Johanneſi Hyrcanus, Simons syni í höndur erfdaſtiórn landsins. Johannes nýtti sér af innbyrdis upphlaupum í Syriu, til ad giöra ríki sitt ad einvaldsríki, hvad hönum líka tókſt; hann inntók Samaríaborg, nidurbraut muſterid á fiallinu Garizim og neyddi Samaritana ad taka trú Gydinga; í 120 ár stód Gydínga fólk undir Maccabæanna farsælu ſtiórn. Ariſtobulus Johannesſon lét kalla ſig kóng, hann úrættiſt mióg og var óſidprúdur og fullur ofríkis og metnadar. Í hans tíd adſkildiſt ens ædſta Prests embætti frá konúngsins, og ósamlyndi fór so í vöxt í ætt Maccabæanna, einkum fyrir því ad Pharisæarar áttu þátt í deilum þeirra, ad þeir beiddu um lidveitſlu af Arabiſkum og Rómverjum; Pompeius herſforíngi Rómverja, yfirvann Arabiumanna her,

inntók Jerusalem, og svipti Gydínga eigin verðsligri stiórn, og flutti Aristobulus fánginn til Rómaborgar rúmum 50 árum fyrir Kristi fæðíngu, og giörði þá skipan, að Gydíngaland skyldi um aldur og æfi vera skattland Rómaveldis. Herodes hinn stóri frá Idumæa var nú settur af Rómverjum Jarl yfir Gydíngaland; en með því hann var slægur mjög og miúkmáll, gat hann unnið hylli Augustus Keisara, so hann þáði landið af hönum, og konúngstitil. (á hans dögum fæddist Jesus Christus) ekki að síður var hinn rómverski Keisari Gydíngalands yfirherra. Loks var Herodis syni Archelaus og þeim ættmönnum hans, er að ríkium sátu, hrundið fra ríki, og landinu stiórnað sem einum hluta Syríu skattlands af Jörlum; hvörra einn Pontius Pilatus var í völdum þegar Jesus Christur var krossfestur. Herodes Antipas sonur Herodis stóra var sá sem giptst hafði Philippusar bróður konu sinni, Herodias, og lét hálshöggva Jóhannes Skírara. Herodes þessi féll að síðustu í ónáð, og var afsettur, og Herodes Agrippa Herodis stóra sonarsonur, hlaut hans ríki, og Philippusar þegar hann deyði; hann offókti ena Kristnu; og deyði eptir 7 ára ríkisstiórn; hans einbirni Agrippa enn yngri var giörður musterisins stiárstióða tilsiónarmaður, hvör og so setja skyldi ena æðstu presta. Sá seinasti rómverski Jarl

Florus, misþyrmdi Gydíngum so þeir megnudu ei lengur undir ad rísa, og ei notadi ad bera upp qveinstafi sína fyrir enu rómversku rádi, sem ecki áleit málstad þeirra. Gydíngar giørdu þessvegna uppþlaup, og myrdtu Jarlinn. Nero, rómaríkis keisari, sendi því Vespatianus þángad med herlidi, enn þá Nero hafdi fyrir farid siálfum sér, og Vespatianus var í hans stad kjørinn til keisara, sendi hann son sinn Titus til ad framhalda strídinu. Gydíngar, sem vóru blindadir af inngrónu þióddrambi vildu eingum sáttum taka af Vespatianus eda Titus, því þeir stóludu uppá ad Gud mundi þeim á yfirnáttúrligan hátt lid veita, þeir urdu vel vid og vørdu dreingilega Jerusalem; borginn var ad sídustu inntekinn med hørdu áhlaupi, musterid brennt, og borginn eydiløgd í grunn, 70 ár eptir burd Christi. Fiøldi Gydínga vóru daudir af húngri og sjúkdómi, og mikill fiøldi féll fyrir sverdseggium; margir innbyggiaranna geingu mansali og tvístrudust um ýms lönd, Egyptaland, Grickland og vídar; þannin eydilagdist Gydínga ríkisstiórn, og hefir hún aldrei sídann vidreist; enn þared þeir altaf hafa vænt eptir þeim fyrirheitna Messias sem skyldi verda þeirra jardneskur einvaldsherra og undir þá leggia adrar þiódir; so létu þeir sig af svikurum nockrum, sem létust vera Messias, táldraga, til ad giøra uppreist i keisaranna Trajans og Hadrians

tíd, sem var forgéfins, og lángtum meir jók ánaud þeirra, og kom því til leidar, ad mörg þúsund af þeim voru drepnir; og ecki lukkadist þeim ad byggia musterid ad leyfi Julians Apostata keisara Romveria, því Gud hindradi þá frá því, á þann hátt, ad þá þeir hófu ad byggia, braust elldur út af grunnvellinum, sem deyddi fiölda af byggingar mönnunum. Ekki ósialdan, þegar þeir í fyrndinni sáu sér tækifæri, vóru þeir ydiusamir nandmenn Christinmanna, og sóktu ad giöra henni mein á ýmsa vegu, nú uppihalda þeir sér vídsvegar um lönd, lifa af höndlun og prángi, og eru ætíd audþecktir fra ödrum þiódum af nokkurskonar einkénni bædi í útliti, málfæri og hegdan; ei eru þeir heldur ödrum mönnum líkir í skapi og flestum eru þeir fremri um verdslunar kiænsku, hefir þad á ýmsum tídum géfid orsök til óvildar millum Christinna og þeirra, hvad á vorum dögum hefir látid sig í liósi í þydsklandi og Danmörku. Enn þad sætir undrum, hvörsu fáir Gydíngar láta kristnast, kémur þad af þeirra fastheldni og hleypidómum, sem þeir hafa inndruckid med módurmiólkinni og raungum meiníngum um Messias, sem og af þiódstolti og hatri til Christinna, ásamt fleiru, er sýnist alt ad benda til þess, ad lángt muni þess ad bída ad þeir taki rétta trú og giörist kristnir.

---

# Stutt ágrip Kristni søgunnar.

Jesus Kristus fæddist í heim þennann hérumbil fyrir 1820 árum, þegar hvørutveggia rammur heidindómur hiátru, fákiænska og skortur upplýsingar, sidgiæda og sannrar Gudsþeckingar og dýrkunar drottnadi þvínær um gióvallar þriár þeckta heims álfur; allar þiódir, ad Gýdingum undanteknum, voru nidursokuar í afgudadýrkun; þó ecki sé því ad neita, ad heimsspekingar á þeirri tíd, helst grískir og rómverskir løgdu stund á, ad uppræta villur þeirra heidnu trúarbragda, og þessi eldu þarfyrir yfirgék allar fyrri aldir, í skarpleik, ritnni, bóklegum mentum og kunstum, enn fyrir því ad heimsspekingar þessir vóru sín á milla sundurþyckir, og fallnir í stórkostlegar villur, so géck þeim torveldt ad innprenta alþýdunni speki sína, sem var harla þúngskilin. Enn hvad meira var, Gýdíngar sem þecktu hinn sanna Gud, eptir þeim trúarbrøgdum sem Moses hafdi kénnt þeim, og eptir enà Babyloniska herleidíngu høfudu so misg afguda dýrkun, høfdu þó spillt sínum trúarbrøgdum og saurgad þau med hiátrúarfullum villumeiningum og vanbrúkan hinnra lærdómssetnínga, so þau tapad høfdu sínum krapti til ad endurbæta

hugarfar og breitni manna; þar þeir til dæmis meintu ad sú gudrækni nægdi, sem alleina væri innifalin í, nákvæmlíga ad fylgja reglugiørdum um forkiusfdi, ad þeir væntu eptir þeim Messias sem einasta skyldi fría þá frá hardstiórn og herradæmi veraldligra høfdíngia, og leysti þá frá framandi þióda yfirrádum, Messías vænudu þeir, ad rétta mundi hluta þeirra, med ósigrum her brióta undir sig alt jardríki og hefna á nágrønnum um Júda rángsleitnis og afurkosta þeirra, er þeir svo tídum máttu af þeim sæta, og loks giøraft høfdíngi þióðar sinnar og einvalldi alls heims; þá mundi fridur og vegsemd apturhværfa og hagsæld og allskonar ágiæti þeim í skaut falla, enn adrar þióðir mundu vid harda kosti búa og hegníngar þola mega um aldur og æfi. Héradanki vóru þeir í tilliti til trúarbragdanna skiptir í þriá flokka. Pharisæarar (þ. e. ødrum frá skildir) vardveittu nákvæmliga Moses lógmál sem þeir aukid høfdu med fiølda af setníngum, og reglugiørdum, þeir útvegudu sér velvild og álit almúgans med heilagleikans yfirskini og hræsni. Sadducæar vóru í mesta dálæti hiá høfdíngium Gydínga, fyrir sakir þeirra friálsrædis í liferniß háttum; þeir neitudu ódaudligleik sálarinnar edur ad annad líf kiæmi eptir þetta, og þessvegna væri ekkert straff fyrir glæpina; bádum þessum flockum voru Essæar frábreyttir, þeir bjuggu ei í borgum eda bæjum, vildu ej hafa

alþióðlegt embætti á bøndum, ecki helldur villdu þeir qvongast edur lifa í hiónabandi, enn søgdust lifa Endi og fir út á skógum og markløndum, sem munkar á seinni tídum, og høfdu annad klædasnid enn Júdar. Þegar á þennan hátt ífi d yrir Heidingium og Gydíngum fæddist Jesus i Betlehem á Gydíngalandi af Davids kynkætti, hérumbil 4000 árum eptir sképun veraldar, hanns fæding var bodud af himneskum einglum, sem var órækt rótsemd fyrir hanns guddomlega uppruna og mynduglegleik medal mannanna, og um þad ad hans fædíng veitti mannkyninu frelsi og heill. Vitríngar komu af fiarlægu landi til ad heimsækiá, hylla og dýrka hann, uppbvitrir þartil af gudlegri ádísan; Herodes Gydínga kongi brá misg í brún þar vid, og fyrir þvi, ad vid náqvæmari eptirgrenslun komust menn ad raun um, ad stadurinn, tíminn og øll atvik vóru samhlióda fyrirsøgnum þeim, er skrádar fundust í heiløgum bókum, vidvíkiandi komu Messias hvor eim fyrir so laungu var fyrirheitinn; hann óttadist því ad Jesus, ef þad uppskátt yrdi, mundi hrinda sér frá voldum, leitadist því vid at ráda hann af døgum enn guds forsión verndadi hann frá Herodis umsátrum. Þá hann var 12 vetra lét hann í lióst sína addáanlegu speki í Jerusalems musteri, og eptir ad hann mørg ár dvalist hafdi hiá foreldrum sínum var hann á þ.ttugs aldri bodadur á yfirnáttúrlegan

hátt og með Johannis skírara bátíðlegum vitnis burði að vera sá sanni Messias; nú var hann innvígður til-framgœngdar þeirra mikilvaguslu erinda, sem hann kom til vegar með sinu dygdaðæmi, kenníngum og kraptaverkum. Tilgángur þeirra trúarbragda sem Jesus kendi var sá, að hann að vísu staðfesti öll þau náturlegu trúarbrøgð, og þau heldstu høfuðatriði Gyðingaunna trúarbragða, sem og einnin, að hann giordi þau lángtum andstiltanlegri, krøstugri, og leiðrétti það sem rángsilið var; hann kendi mønnum ej allerna að þekkja Guð lióslara, helldur likka gisrði hann skilianlegt, hverninn Guð á þrennslagsháttværi mannkynsins skaisti-velgiørari, sem Faðir, Sonur og heilagur Andi: að allir þeir velgiørníngar, sem oss eru untir og í té látnir fyrir skøpun, viðhald, og stiórnun allra hluta og viðburda tileigniist Guði, sem føður allra; þá velgiørninga sem oss með Christindóminum í skaut falla, høfum vér Guðs eingétnum syni að þakka og þessara viðvarandi velgiørnínga verkan í hiørtum Christinna til uppløsínger, endurbótar og sáluhiálpar, er verk hins heilaga anda. Frammvegis kendi hann, að Guð vildi ecki einasta Gyðíngar helldur og allir menn yrðu sáluhólpnir; hann sannaði sig að vera þann mannkynsins Frelsara, sem á elðstu tíðum var fyrirheitinn feðrunum, Guðsson, er skyldi framqvæma þetta mikilvæga endurlausnarverk

med kenningu, eptirdæmi og med því ad líða dauðann til friðþægíngar mannkyninu, hann sagði ad hann væri ei einasta sá, fyrir hvörn menn frelsaðust frá glötuninni, heldur líka sá, sem siálfur útbýtti sáluhjálp þessari, og nær hann væri til himna uppfarinn í samfélag síns föðurs guðdómlegu hátignar og veldis, skyldi hann stiórna mannkyninu med sínni sérdeilislegri Guðdóms forsión, og styrkja þá, sem á hann tryðu, til ad verða hluttakandi í þeirri farsæld, sem hann hafði afrekað þeim, og á síðasta dégi niundi hann uppvekja frá dauðum alla menn, og gialda einum og sérhvörjum eptir hans verkum, hvarað hvör búa mætti um alla eilífð. Lángtum skiljanlegar enn í G. T. bókum kendi Jesús ad vör sál viðvara mundi eptir ad hún leist væri frá líkamanns böndum, hafandi fulla meðvitund um sína tilveru og verkandi krapt, og síðann samteingiast forklárudum líkama. Hann bauð ad upphefjast skyldi [illegible] kyrkjusiða og fyrirmindanna, sem á fyrri tíðum hefðu átt að fyrirminda þessa velgiörnínga; enn til ad ödlast þetta hiálpræði, sem hann útvegaði mannkyninu, yrði ei einasta ad meðtaka það með vissu og fullu trúnaðar trausti, helldur og einkum færa sér það í nyt med endurbættu hugarfari og dagvaxandi frammför í dygð og heilagleik.

Enn eki lofaði Jesús mannkyninu forgeingilegum líkamans giæðum alleina, helldur

Þvilíkum gjæðum sem hefdu sjerkandi krapt í tilliti sálarinnar, og þess lífs sem er fyrir höndum eptir daudann, þar hann sendur var til ad frelsa mannkynid frá þeirri ó'farsælld, í hvörja sú sídferdis spilling hafdi steipt því samt veikja vísst spillingarinnar ad því leiti sem hún innifalinn var í skorti ávaxtarsamrar þeckingar á Gudi og hans vilja, og leida þad med uppfrædingu um trúna og dygdina til þeirrar farsældar, sem Gud í þessu og ødru lífi hafdi því áqvardad, hann gaf líðsléga til kynna ad þad ríki hann stipta ætti, væri andlegt, enn ecki jardneskt, líka kéndu hans trúarbrøgd, ad þad væri ecki nóg ad dyrka Gud med mørgum skrautlegum útvortis sidum og látædi, helldur af hreinu hiartaþeli og einlægum Gudrækni tilgángi; þeir sem játast vildu undir hans trúarbrøgd, áttu ad skírast í hreinu vatni til nafns fødurs, sonar og heilags Anda, sem teikna skyldi endurbøt lífernisins og hreinsun frá saurigum þeinkingarhætti; Enn þeir sem stadfestast og styrkjast vildu, í trúar og gudrækni sti dugri æfíngu; skyldu neyta brauds og víns, sem vígt var med bænum, þetta skyldi vera sterkásta útvortis teikn og merki til ad endurminnast frelsarans forþénustu, trúarinnar pantur og uppørfan til ástundunar dygda'ulls lífernis af elsku til Krists og náúngans. Jesus sannadi sinn lærdóm med því margsinnis at skírskota hønum undir hreinnrar skynsemis dóm-

stól; hann setti fyrir sjónir ad alt hefdi á ýtrasta máta framkomid, sem Gud hefdi frá aldaødli, fyrirheitid mannkyninu um sig fyrir spámenn sem v ru medal Gydíngaldds, í þeirra skriftum, fyrirmindunum og kraptaverkum, øll hans kénníngar atridi vóru so samqvæm sin á milli, og studludu øll til allra manna nytsemdar; sannleikans ómotstædilegi kraptr í hans efalausu rædu m, ... so til hiartnanna, ad stærsti fiøldi fólks, flykfist hvervetna umkring hann, til ad hlýda á; skorinnordt og án manngreinar álits lastadi hann hleypidóma og hræsnis yfirskin, hvar sem hann fann þad, og hans óstraffanlega heilaga framferdi jók so miøg gyldi hans fidalærdóma. Í augsýn fleiri Gydínga, fiandmanna hans og høfdingia, giordi hann næsta mørg kraptaverk, sem létu í lióst guddómlega makt og giædsku, þess sem giørdi þáu, því þau skédu ætíd á þeim stad, tíma, og fyrir því fólki sem hagqvæmast var, og ætíd vóru þau velgiørdarík; hann spádi hvørnin gánga mundi fyrir sér, sínum lærisveinum, trúarbrøgdum og þeirra mótstødumønnum um allann heimsaldr. Þannig umgékst Jesus á fiórda ár medal Gydínga, kéndi opinberlega, enn rómur um hann útbreyddist medal nálægra heidingia. Þótt hans þjód fagnadi hønum minna enn vera bar, fékk hann so mikinn losstír, ad margir giørdust áhángendur hans, bædi af ædri og lægri stéttar mønnum,

einkum umgékst hann síua fulltrúa, sem vóru hans útvaldir lærisveinar, hvørja hann uppfræddi, og giordi hagqvæma til ad verda hans sendiboda ar medal mannkynsins. Þessir menn vóru ecki voldugir, ríkir, ednr hafdu yfirburdi fram yfir adra í skarpleik, lærdómi edur málsnild; því þeir voru fiskarar, tollheimtumenn, og fáfródir, hafdu ei til menta setter verid; med hógværu blídlyndi umbar Jesus og leidretti þessara feil og hleypidóma, þeir vóru sjónarvitni hans mannelskufullu fyrirtækja, og velgiørdaríku kraptaverka, samt heyrnarvitni hans sáluhiálplegu kénninga. Í sinni hérvistartíd mátti Jesus þola margar árásir sinna fiandmanna, Gydínganna, og loksins gaf hann sig sióviljuglega undir hid smánarlegasta daudastraff, hvørt hann fyrir spád hafdi, og deydi til ad fridþægia mannkynid vid Gud, þá hann var rúmt 33 ára gamall; enn á þridja degi uppreis hann frá daudum so sem hann fyrirspád hafdi, so ad hann med sínu stærsta kraptaverki, stadfesti øll ønnur og hans lærdóma; og þá hann hafdi útbúid sína vini og lærisveina med nýum dug og nýrri trúarstyrkíng, og lofad þeim sinni ævarandi hiálp og adstod, vard hann eftir 40 daga dvøl medal sinna lærisveina eptir hans upprisu, á hátignarfullann hátt uppnuminn til himins, til lióssins ædri bústada, hvadan hann var kominn; nú fyrst vard lærisveinunum þad fullkomlega skiljanlegt, ad

Jesus var ecki kominn í heiminn til ad stipta jardneskt einvaldsdæmi, helldur væri síns sáluadar kóngur og yfirherra; Þá þeir á næsta hvítasunnudeigi eptir Kristi uppstigníng voru samanfnadir í Jerusalem, var þeim inngéfinn ædri visdómur, og þeir útbúnir med yfirnáttúrlegum nádár gáfum, so ad þeir med árángri gætu útbreidt Jesu guddómlega lærdóm medal Gydínga og heidingia. Med sínum kroftugu rædum, markverdu giørdum, med þeirra hreinskilni og óstraffanlega framferdi, fjølgudu þeir dag fra dégi Jesu iátendum; enn strax vóru þeir bodadir ad mæta fyrir enú stóra rádi í Jerusalem, sem þá fyrir skømmu dæmt hafdi Jesum til dauda, og med straungustu heitingar ordum var þeim fyrirbodid ad kunngiøra lærdóm þess krossfesta Jesu; med fullri hreinskilni og djørfúng svørudu þeir: fremur ber ad hlýda Gudi enn mønnum; þared þeir med hótunum ecki létu sig hræda, vóru þeir settir í fángelsi, húdstroknir, og hardliga medhøndladir; ecki fángelsi, ecki misþirming, ecki háð ne spott hamladi þeim ad áframhalda sinu byriada fyrirtæki. Þeir héllda áfram, þeirra stødugløndi, þeirra trú, þeirra hreinskilna mannelska upphvatti fólk til ad taka trú þeirra. Fiandmennirnir brúkudu nú hardari þvíngunar medøl. Stephanus var grýttur, Jacob hálshøgginn, og hinir adrir vóru hughraustir reidubúnir til ad lída allt fyrir Jesú nafns sakir. Enn

snögglega feingu þeir einn trúfastann og duglegann medhiálparmann, Paul, sem var af Pharisæaranna flocki og sem hafdi verid einn af þeirra hættuligustu assóknarmønnum: á yfirnáttúrlegann hátt snerist hann til kristilegrar trúar, og hiálpadi mikid til Kristinndómsins útbreidslu sérdeilis medal heidingia, og þad med sinni málsnild, diørfúng, og sovel óþreitandi sem óeiginngiørnu kostgiæfni. Gydínganna offóknir mót kristnum, giørdu, ad þessir neyddust til ad flytja kénníngu sínu, í ødrum rómaveldis skattløndum; enn allstadar hvar þeir komu, hafdi sú alvísa Guds forsión skipad því uppá hagqvæmasta máta til trúarbragdanna útbreidslu. Bædi Gydíngar og Samaritanar, sem bjuggu í Palæstina fundu fulla naudsyn á hreinni Gudsþeckíngu, sem Gydínga kénnimenn ecki gátu hindrad ad hiálpadi til Kristinndómsins útbreidslu; hér adauki vóru Gydíngar hvervetna útbreiddir í øllum løndum, so Postularnir fundu allstadar landsmenn og gamla trúarbragda sambióna, hiá hvørjum og fyrir hvørra styrk þeir gátu giørt Kristinndóminn heyrum kunnugann. Sú rómverska stiórn, var í þá daga so tilhlidrunarsøm, edur réttara sagt, so hyrdulaus um allt, sem vidkom trúarbrøgdum, ad hun ecki hyrdti um, ad niðurkéfja þennann nýja lærdóm strax í byrjuninni, sem menn þá álitu eina grein af Gydíngum, enn mestur hluti þeirrar þá þecktu veraldar, sem og

állar stadar þjódir vóru nágvæmlega sameinadar med þeirri sameiginlegu grísku tungu á hvörri Postularnir skrifudu og hvöria þeir töludu, sams einadar med verdsligar og borgaralegum böndum, hvar af létt er ad skilja, ad hin kristilega trú gat útbreidst í Asiu, Egyptalandi, Griekilandi og Vallandi med adverknadi siálfra Postulanna, já, og vestúr leingra til Spánar og Fraklands sudlægu stranda. Postularnir brúkudu sama trúarbragda form, og sama kénnslu máta sem meistari þeirra brúkad hafdi, enn samt sem ádur högúdu þeir kénníngum sínum soleidis, ad þær áttu vel vid þeirrar aldar fólk, og einkanlega vóru haggvæmar til ad uppræta heidingianna villudóm, og lögudu sig eptir tímanna og mannanna ásigkomulægi; í fyrstu stódu enn kristnu söfnudir undir Postulanna egin tilsjón, edur þeim kénnimönnum sem þessir völdu til sinna embættis eptirmanna, þeir nefndust Öldungar (Presbyteri) og adrir Tilsjónarmenn (Episcopi, hvadan Biskupar); enn til þess ad Jesu lærdómur um allann heims aldur hreinn vardveitast kynni, kom en guddómlega forsjón því so til vegar, ad postularnir Matthæus og Johannes, og tveir af postulanna lærisveinum Marcus og Lucas uppteiknadu þau mikilvægustu af Jesu verkum og rædum, hvörir ad sanna sínar frásagnir med so stórri nágvæmni og hreinskilni, ad ecki dylja þeir sínar eginn breisk-

leika ádyrdíngar. Enn fyrir því, ad sumir misskildu nockur atridi þeirrar kristnu trúar so skrifudu postularir Páll, Petur, Jacob, Johannes og Judas sendibref, til heillra safnada, eda safnadanna kennimanna, í hverjum þeir útþýda en heldstu trúarbragda atridi, og skéra úr málum. Hinn fyrsta Dag vikunnar samannsøfnudust Jesu játendur, annadhvørt hiá safnadanna medlimum, þar þeir enn nú høfdu ecki kyrkiur, eda opinber hús til gudsþiónustu giørdar, eda þá af ótta fyrir ofsóknum í iardhúsum og afsídis stødum; eptir ad þeir, sem uppábodid var, súngid høfdu loffaungva Gudi og Jesú til dýrdar, las safnadarins kénnimadur vissar bibliu greinir, útþýddi þær, og heimfærdi uppá dagligt líf, sann ad drottnandi løstum og villulærdómum, og það ecki í blómstrandi stíl, eda med konst; med þacklæti mintist hann á postulanna, og hinna fyrstu píslarvotta endurminníng; vid þeirra kjærleiks máltid, sem þeir á sunnu daga samkomum sinum helldu, meddeildi elldúngurinn edur Biskupinn søfnudinum braud og vín eptir ad hann hafdi blessad það. Þeir til stadar verandi medtóku hid blessada braud og druckú af þeim sama blessada kaleik, til eptir Jesu skipan, ad endur minnast hans pínu og dauda, og þeirrar innbyrdis elsku sin á milli, sem han bodid hafdi. Su heilaga Qvøldmáltid asamt Skýrninni voru þeir einustu kyrkiusidir

sem tídkadir vóru í kristnum söfnudi, og nú sýndi sig sá guddómlegi kraptur, sem var hulinn í hinni kristnu trú, til ad endurbæta sinnislag og sidferdi manna; Því Þad var lángt frá, ad enir fyrstu kristnu léti sig afvegaleida af Þeim medal heidingia Þá drótnandi löstum, mikid helldur létu Þeir med dygdafullu framferdi sitt Guds-sannelskandi hiartaÞel í liósi, Þar sem hin heidna trú ecki gaf nockra tilkhandi uppvatning; mannvini sýndu Þeir sig ad sins guddómlega meistara dæmi, og Þad so mjög ad Þeir elskudu sína óvini. Þeir vóru síns kóngstrúfastir Þegnar, Þó hann á grimdarfullann hátt leitadist vid ad eydi leggia Þá, fridsamir borgarar og Þad í Þeim órólegustu stödum, fullvissadir um eptirkomandi eylífa farsæld vóru Þeir undrunarlega Þolinmódir, styrkir, og stödugir í mótgáng, í opinberum, reidubúnir til ad offra lífi og blódi Gudi til dyrdar. Sá vansi som útbreidsla enna kristnu trúarbragda orsakadi heidingium og prestum Þeirra, qveikti fyrst prestanna, og sídann hiátrúarfulls almúga hatur til Þeirra, Þeir vóru klagadir ránglega, og rómveria stiórn vard nú vör vid Þessi nýu kroftugu trúarbrögd sem hún híngad til forsmád hafdi, ad Þau af enu litla frækorni, eins og Kristur ad ordi komst, var vaxid og ordid ad stóru tré, sem ecki var so hægt upp ad ræta; ofrikid vildi Því upphöggva Þad, enir rómversku

keisarar leitudust því við að útrídia Jesu trúarbrøgðum af sinum ríkjum ogløndum, með elldi og járni, þeir voktu hardar offóknir móti enum Kristnu, sem itrekuðust aptur og aptur næstum í 250 ár, sú fyrsta byriadi undir keisara Nero, á hvørs døgum Jesu postular Pétur og Páll, auk fiølda þúsunda annara saklausra kristinna, vóru lífslátnir, enn sú seinasta skédi árið 303 eftir Krists burd; enn allar þessar hørmúngar þénudu til að styrkja þá kristnu í þeirra trú, og hindradi ecki útbreiðslu hennar, því ennú lifðu Jesú játendur samqvæmt hans kénninga heilagleik; þó ecki verdi því neitað að snemma blandaðist lærdómurinn með ofvitringa (Gnostikans (na villu lærdómum, og gydínga setningum, enn þessir voru án efa á bak aptur brotnir af Jesu og postulanna lærdómum. Í byrjun 4ðu Aldar, neitaði Arius lærari fra Alexandríuborg (317) að Kristur væri sannur Gud; hans villu lærdómur skaðaði því meir kristilega Kyrkju, sem hann fliótara útbreiddist. Einsetumenn (Eremitar) forðuðust manna sambúð, og dýrkudu Gud út á eyði skógum, so þeirra dygdugu eptirdæmi, ef so verið hefdi, kom ecki ødrum til nota eda uppørfunar; einínn hóíst nú múnkalífi, sem var misskilin andagtar æfing; þessir 'sérlindingar hópuðu sig, heldu sér frá gøptíngum, geingu í klaustur, og urdu seinna meir hentug verkfæri ens drotnunargiarna Pafa. Keisarinn Con-

stantinus enn stóri tók árid 325 kristna trú, og giørdi hana almenna í sínu vídlenda ríki, hans adseturs stadur var Róm; enn nú flutti hann sig til Byzants, sem eptir hønum kallast Constantinopel; enn so snart sem þau kristnu trúarbrøgd feingu yfirdrotnan í Rómaríki, og þeirra játendur uggdu ecki ad sér, var innleiddur fiøldi kyrkiusida sem smámsamann veiktu þá innvortis andagt og hreinskilni, sem er eitthvørt ed vissasta einkenni Kristindómsins, nú tók hiátrú, háleit múnkalífsins vyrding, og vanvitsku þoka, ad glepia fyrir augum enná Kristnu, sem altaf styrktist fyrir safnadanna kénnimanna vaxandi veldi, og fákunnáttu. Þeir rómversku Biskupar stadfestu vald sitt yfir hinum Kristnu og færdu sér kiænlega í nyt, høfdíngianna velvild og giafmildi, sem og tímanna torrek og þreyngíngar hvaraf á hinni fimtu øld upprunnu margir skrýmslis villulærdómar. t. d. Dýrdlínga dyrkun bílæta tilbeidsla, hreinsunareldurinn, fórnfæring altaris sakramentisins, nyuppfundin adferd til ad fridþægia Gud med og annad þvíum likt; Rómabiskup lét sig kalla ædsta Biskup edur Páfa, af øllu þessu risu stórir flockadrættir, útaf þeim hlutum sem vidveku trúarbrøgdunum, hvaraf bædi útlegdir og mord hófust. Jafnframt øllu þessu, var enum kristnu trúarbrøgdum stórlega hnekt af enum múhamedansku, sem

uppkomu í Asíu, stiptud af kaupmanni nockrum Muhamed, er var arabiskur ad ætt, fæddum í Mecca árid 570, hpparlega gáfudum, sem af vísterkum innbyrlingarkrapti, og drotnunarsýki tókst þad á hendur, hann qvadst vera spámadur af himnum sendr, hans heldstu trúarbragda atridi vóru þessi; einn Gud er til, Muhamet er hans spámadur, þar eru óumflýanleg forlög, og alt sem skal ské vid manneskiuna, er einusinni áqvardad; sú far sæld sem enir godu meigu vænta í eilífdinni er innifalin í sandsalegri anægiu; alla þá sem ecki vildu taka hans trú, áleyt hann vantrúada, og baud ad útbreida sín trúarbrögd med elldi og vopnum, yfir höfud vóru hans lærdómar blendíngur af Kristinna, Gydínga og Heidingia trúarbrögdum; árid 622 frá hvörri tíd Múhamedanar hefia tímatall sitt hlaut hann ad flýa frá Mecca, enn lagdi þar eptir undir sig giörvalla Arabiu, harn er grafinn í Medinaborg. Ad hönum daudum, útbreidust hans trúarbrögd med vopnum í flestum Asíu og Africu landsálfum, hvar þau ennnú drotna; þegar tyrkiar, því so kallast hans trúarjátendur, árd 1453 undir sig lögdu þad austlæga keisaradæmi, og inntóku höfud borgina Constantinópel, innleiddist múhamedansk trú í Evropu sudaustur hluta. Hvörsu stort tión þetta hafi ollad útbreidslu kristilegra trúarbragda er audvit-

ad, enn ecki sídur giørdu þad óreglur og misbrúkun þeirra, sem 'þ ílt: þ im frá 4du til 16da aldar; Páfinn øðladist meira veldi, geisadi áfram med dagvaxandi diørfung, so giørvøll Evropa titradi fyrir hans tignarveldi, hann hratt kóngum frá ríki og gaf þad øðrum, eptir egin geðþekni, fordæmdi þá sem trúðu øðruvísi enn hann baud, almúga mønnum leifdist ei ad lesa heilaga ritningu, enn máttu láta sér nægia med kennendanna ónyta tilsøgn, og þessi spiltu trúarbrøgd køllnduzt en almenna trú (catholica), enn hinna sem ecki í øllu samsintu henni nefndist villu dómur (hæresis), Páfinn útsaug løndinn med afgiøldum, og þetta í fyrstu alt undir yfirhylmingu þeirra velgiørandi mannelskufulla kristnu trúarbragda, ja hiátrúin gécé so vidt, ad Páfinn lét selia syndanna fyrirgéfning fyrir penínga, og þad ecki aleina þeirra synda sem drygdar vóru, helldur líka þeirra sem drýgiast mundu. Sú innbyrling ad gudi væri vellþóknanlegt, ad menn ferdnduzt til Jerúsalem, og annara borga hvar Jesus og hans postular komid hefdu, sem køllnduzt Pílagrimsreisur, gaf orsøk til þeirra sonefndu krossherfara sem skédu á 11tu og 12tu øld eftir Kristi burd, mót Tyrkium og feingu nafn af því ad þeir reisandi teiknudu krossa á klædi sín ýmislega lita. Synda fyrirgefningar Verdslunar menn vóru senndir til allra þeirra sem ferdast villdu í þessum

eyrindum, og til styrktar ad byggia era stòru Pêturskyrkiu í Róm, nú fást valla skuggi af þeim velgiördarìku Kristnu trúarbrøgdum í heiminum, so hyrdu þau vegna þeirra misbrúkunar tapad sínum saluhiálplega krapti; samt gat ei hiá því farid at slík ásælni og drottnunarsýki Páfanna vard møgum kunnug, og espadi þa, ad visu risu ogso nockrir upplýstir og velþeinkjandi menn á móti Páfadómsvillum, t. d. Petrus Waldus, franskur kaupmadur, hans áhángendur útbreiddust i enu sudlæga Frakklandi og Vallands efsta hluta hérumbil 1180, þessir vildu byggia trúarbrøgdin á heilagrar ritningar ordum, enn urdu fyrir ofsóknum, og duldust á enum piemontisku og savøyisku fiøllum, móti þeim hófst su hættulega trúarbragda eptir grenslan (Inqvisitioninn); Engelskur gudfrædis madur Jóhann Wiclif frá Oxford, tók sig krøftugar upp á móti Páfanum, útlagdi heilaga ritningu á sitt módurmál, og skrifadi fleira þaradlutandi, enn vegna ofsókna gátu hans áhangendur litlu til vegar komid; eftir hann komu Jóhann Huss og Hieronimus frá Prag 1400, þeir prédikudu á móti Páfans og kénnivaldsins ógudlega athæfi, hverra hinn fyrri sagt er ad spád hafi um Luther, þegar dæmdur var til ad brennast, seigiandi: "nú steikid "þid eina gias, enn eptir á mun koma

"svanur sá sem þid ei steikt sáid."
Hann vard lifandi uppbrendur 1415; í sama
máta árid eptir vinur hans Hieronymus.
Þeirra áhángendur leitudust vid at forsvara sig
med sverdi, og enn nú erú nockrir eptir af þeim
undir því mæhrisku og behmisku brædra nafni.
Þess er og þarnæst getandi, ad sídann Constan-
tinus enn stóri flutti stól sinn til Constantinopel,
var enni Kristnu kyrkju skipt í tvo hluti
þá austlægu og vestlægu kyrkju; sú austlæga
kalladist en gríska kyrkja fyrir því gríckland og
nálæg heród heyrdu henni til. Kristinndóms seg-
unni skipta menn því vanalega eptir þessum tvei-
mur; í enni austlægu kyrkju voru ei sávitsku
myrkurinn so þyck sem i hinni vestlægu, því
nockrir keisarar vóru lærdoms vinir, og lærdir
siálfir, enn eptir ad Tyrkiar innteckid hofdu Con-
stantinópel árid 1453, forstnadi þar, enn mentir
flutust nú med ýmsu móti til hinnar vestlægu
edur rómversku kyrkju, og á margvíslegann hátt
giordi forsiónin, Evrópu innbúa haggvæma til
ad þyggia trúarbragda endur bót, Páfa og múnka
sákunnátta vard því liósari, sem almennari
upplýsíng meira útbreyddist; enn mest tión giordu
Páfarnir sér med því ad flytia setur sitt frá Róm
til Avignon í Frakklandi 1305, og þrir ad ríkia
í einu, þared þeir líka leitudust vid ad giora
hvor odrum skada; hvor misklid og óregla varadi
í rum 70 ár. Almanna rómur var Páfunum

mótsnúinn, og margir fursiar gyrtust ad afkasta hans óþolandi ánaudar oki. Bibliann var útlögd á alþýdu skilianlegt mál, Prentverkid nýlega uppfundid, nockur biskupamót framkomu, sem hiálpudu til ad ná aptur kristilegu frelsi; háskóla stiptanir, og þadan kominna lærdra manna skrif, útbreiddu upplýsíng, og friari þeinkingar hátt. Páfi Leo 10di útsendi Jóhann Tezel til ad selja syndanna fyrirgefning í Sachsen, hvar í þann tíd var uppi Martinus Luther, Gudfrædis kennari vid háskólann í Wittenberg, sem og augustíner munkur, sem med yfirordulegri hugs dirfung, og sannleiks elsku mótsetti sig enni almennu spilling, han hafdi safnad med ydugglegum lestri heilagrar ritningar betra hugargripi um kristindóminn, enn í þann tíd var þeckt, og kunngiört sama í predikunum sínum, þegar nú Tezel seldi syndanna qvittan í grend vid hann, og nockrir keyptu, og þad sumir af Luthers sófnudi, so skrifadi hann og predikadi á móti því 1517, og setti fyrir sjónir, ad Gud alleina giæti fyrirgéfid syndirnar, undir því skilyrdi ad menn betrudu lífserni sitt og færu dagvaxandi í dyggd og gudrækni; enn Páfinn giæti einasta uppgéfid þad kyrkjulega straff, sem hann sjálfr uppqvedid hafdi, enn eingannvegin med sinni syndaqvittunar sölu útvegad manneskiunum Guds nád og eilífa sáluhiálp. Árid 1520 uppbrendi hann

í margra stónarvotta nærveru enn páfalegu lögbók (bullu), hvar med hann gaf til kynna, ad hann sagdi sig undann hlýdni vid páfann. Keisarinn bodadi hann til Worms á furstafefnu, til, í hans og þeirra áheirn ad forsvara sína lærdóma; þótt Luther hefdi lángann veg þángad, og fiölda fiandmanna á leid finni, samt var hann so einbeittur og diarfúngarfullur ad hann ferdadist þángad, og vid þad tækifæri orkti hann psálm, Ovinnanleg borg er vor Gud; ecki feldi hönum helldur hugur vid tillit so margra fursta, því þá hönum bodid var, ad aptúrkalla lærdóma sína og rit, so hann ei sem villumadur lifandi brennast skyldi, so svaradi hann einardlega, "so leingi sem eg ecki med "heilagrar ritníngar vitnisburdi, édur "med klárum og liósum rökum er sann"færdur um, ad eg hafi tekid feil, so "gét eg ecki, og vil ecki aptúrkalla hid "minsta, því mér er ecki leifilegt ad "breita ámóti gódri samvitsku; her er "eg, eg get ecki ödruvisi breitt," hann var úrskurdadur fridlaus og hlaut eptir keisarans forsiá ad dyliast á Wartbúrgar sloti, hvo ecki fiandmenn hans giætu rádid hönum bana; hér tók hann ad útleggia biblíuna á þiódverska túngu þaradauk samdi hann marga hiartnæma sálma; hans helstu lærdóms meiníngar vóru þessar: Páfinn hefir ecert vald yfir Kristnum söfnudi;

eingum manni leifist ad drotna yfir annara trú og samvitsku; heilög ritning skal vera su leidarsnúra eptir hvörri ágvarda ber, hvad sannlega vidvíkur Kristinndóminum; bibliuna skulu allir lesa; múnkalífi, dyrdlíngadyrkun, sálumessur, syndaqvittuuarbodun, og fleira þesshattar, skulu afleggiast, því þad eru hiátruarfullar manna setníngar; kennivaldinu ber ad lifa í hióna bandi, og þeir skulu undirvísa fólkinu i þeirri sönnu gudrækni; sú opinbera Gudsþiónustu giörd á ad vera medal til sannrar upplysíngar og uppbyggíngar. Nockrir lærdir menn studdu mjög Lutherus fyrirtæki, á medal hvörra Philip Melanchton var enn hellsti, sem eins og Luther var kénnari vid enn Wittenbergska háskóla, samt Bugenhager, sem af því er oss markverdur, ad hann var sendur til Danmerkur, til ad innleida þar endurbót trúarbragdanna, hvör kölluð er en lútheraniska Reformation, og þad eptir beidni Christiáns ens þridia Danakóngs, hún vard stadfest í ríkinu árid 1536, og útá Íslandi, eptir ad biskup Jón Arason var yfirunninn; fleiri kóngar og furstar létu innleida hana í ríki sín, og þeir sem þad giördu kölludust Protestantar, fyrir því þeir protesterudu edur mæltu á móti þeirri skadlegu forordningu sem var útgéfin móti þeim á kóngamótinu í Speier ár 1529 af keisara Karli 5ta; árid eptir fremlagdi Luther á kóngamótinu í Augsbúrg þad

stutta evangeliska trúar inntak, sem ver þeckjum af nafninu og kallast su augsburgiska Confession, sem samin var af enum framannnefnda Philip Melanchton; hana undirskrifudu margir furstar, og hún var opinberlega upplesin, og sidann útløgd á mørg túngumál, og løgd til grundvallar ennar evangelisk-luthersku kyrkju trúar, sem ádur enn Lúther deydi 1546, var útbreydd í mørgum løndum. Ósamlindi millum evangelisk-lutherskra og kathólskra fór nú aptur í vøxt og orsakadi ad sídustu lángvarandi strid, *) sem kallast 30 ára stridid og endtist med þeim westphálska frid 1648, af hvørju flaut lútheraniskra frí trúarbragda æfing, sem ad mestu leiti sidann hefir viðvarad. Næstum á sømu tíd og Lúther var, hóf Ulrich Zwingli í Schweits trúarbragda endur bót, upphvattur þartil, sem Luther, af synda uppgiafar sølu; hans personulegu eginligleikar vóru ei sídur enn Luthers elskuverdir, enn hann fell ár 1531 í bardaga nockrum þá nágranna fylkin í Sveitsalandi heriudu á hann og fveitúnga hans, fyrir sakir ennar nýu trúar. Madur er nefndur Calvínus er var málsniall prestur og lærifadir í gudfrædinni í Genf; hann umbreytti

*) Eg veit adviſu ad ſtrid þetta var ei alleina trúarbragdaſtrid, enn 'u nærſta orſøk til þeſs var óneitanlega oſſó:nir móti proteſtantiſkum.

nockud Zvinglys lærdómi, hvar fyrir hans áhángendur, Calvinianar edur reformeradir, viku meira fra lutherskum, einkum ahrærandi altarisins sakramentid því þessir tóku þau Jesu ord: þad er minn líkami, þad er mitt blód, eptir ordunum, enn hinir sögdu: þad þýdir minn líkama, þad þýdir mitt blód; hinir reformerudu útbreiddust stórum, í Helvetiu, Frakklandi, Hollandi, Skotlandi og Þýdskalandi, þó máttu þeir þola ofsóknir einkum í Frakklandi, hvar mörg þúsund reformeradra, sem þar kallast hugonottar; í því sokallada parisiska blód brúdlaupi Bartholomæusar nott 1572 vóru myrdtir; advísu ödludust þeir sídan fria trúarbragda æfingu, enn eingu ad sídur var þeim árid 1685 aptur misþyrmt, hvörsvegna mörg þúsund flúu þadan til ýmsra landa, einkum Brandenborgar. Þegar Nidurlöndinn ennu ár 1566 stódu undir Spánar kóngi, vóru reformeradir so ásældir, ad þeir gripu til vopna, og 7 landsálfur, þau so kölludu sameinudu Nidurlönd, brutust undan hlýdni vid Spán, og eptir hérumbil 80 ára strid vard fríland.

Um sama skeid og Luther byriadi trúarbragda endurbótina á Saxlandi, braust ögsvo England undan páfans hlýdni, þott enskir ei ad öllu leiti væru Luther samdóma, sú engelska kyrkia hósst árit 1560, hvörrar sérhvör sofnudur stiórnast af biskupum, er hafa mikid veldi og gösug-

leik, er hun því kölluð hin *biskupaliga* kyrkja.

Enn nu fleiri *trúarbragda flockar* géfast t. d. su *grískа* edur *austurlendska* kyrkia, sem er su eldsta í kristninni, hvørrar her að framann gétið er, þessi stód aldrei undir páfans herradæmi, að vísu hafði hún sømu trú sem sú vestlæga, og hiátrúarfull dyrdlínga dyrkun var tydkud í báðum, samt sem ádur leitadist aldrei þessarar yfirmadr patriarkinn í Constantinopel vid ad hripsa undir sig ótilbærileg geistleg eda verdsleg vøld, enn hérumbil þusund árum eptir Krist upphófst allt samgvæmi millum þeirrar austlægu og vestlægu kyrkiu, hin fyrri tapadi ad vísu størum 1453 vid tyrkiana yfirfall, enn aldrei hafa þvílík vanvitsku myrkur yfir hana komid sem hina vestlægu; hid vídlenda Rußland játar sig til þeirrar grisku kirkiu og kallast þar hin *russisk-griska* kirkiu, sem í mørgum greinum hefir seingid endurbót sídann 1700. Á Luthers tídum upprisu *endurskyrarar* (anabaptistar) sem og nefndust mennonitar, eftir oddvita þeirra *Menno*; lífa einkum í Hollandi og Englandi, þeir hafa þegid endurskyrara nafn af því að þeir ei vilja láta skyra nema þá sem til vits og ára komnir eru, enn í flestu ødru líkiast reformerudum. Ár 1650 létu *skiálftamenn* (kvækarar) sig í lióst í Englandi, þeir festa trúnad á innblástri, og róslegum hugleidingum, eru frásneyddir ødrum í

klæðaburði og háttsemi, og titra mjög á sam- komum sínum, einig aðvara sína meðstóðu menn segiandi: "titrið fyrir drottni!"

Paradauki hinir moehrisku bræður, sem eru hussitannna afkomendur, þeir kallast annars Herrnhútarar, því þeir uppiheldu sér í fyrstu í grend við Zittau í efri Lausits, sem bygð var undir rísabiergunum, hverra einn hluti kallast Herrenhut. Þeir lífa rólegu og ydjusömu lífi, og eru alvörugefnir í guðrækni sinni, á seinni tíðum samsinna þeir hinni evangelisk-lu- thersku kyrkiu enn leggia sig eptir edallundaðri einfeldni, og bíðlyndi. Á meðann Páfinn þann- inn á lallar síður var undirþricktur, framkomu einslags múnkar sem af alefli studdu hans makt, þetta voru Jesuitar, sem kölluðu sig e societate Jesu, hvör orða sliptuð var 1540 á Spán af Ignatius Loyóla, og þáði nafn þó óréttværi, af vorrar trúar höfundi Jesu, Loyola var af spánskum aðli, hann sókti um og fécк leyfi af páfanum, að hann mætti safna tilteknum með- limum] til ordunnar, hvöreð so hastarlega út- breiddist fyrir því að hún kenndi so fríann siða- lærdóm, hún var víslega innrettuð, og eingir aðrir enn áslálegir og skarpvitrir voguna ar hálfar feingu aðgáng til hennar; snart komu þeir í stórt álit hiá meiri mönnum fyrir það og lærdóm sinn, so þeir giörðust skriftafeður kónga og barna kénnsla var þeim víðast á hendur falin, og bygg-

ianlega giørdu þeir stórt gagn med sínum málvísinda skrifum, enn þeir voru trúir páfa þiónar sem skriftafedur og ungdóms uppfrædendur, og ørskudu øeyrdir. Þeir kéndu lika ad leyfilegt væri ad hafa undanskot í eydum (reservatio mentalis) sem mørgu getur íllu af stad komid; ad seinustu tóku þeir þátt í øllum óeyrdum, og vóru miógrunadir fyrir ad orsaka kóngamord, hvar fyrir þeirra orda eptir marga undangeingna vidleitni, var af páfa Clemens 14da upphafin 1773, eptir margra kónga bcydni, hvad ed olli hønum hastarlegs dauda. Þó hafa þessir sømu Jesúítar nád á seinni tídum sínu forna áliti ad nockruleiti, vída í þeim kathólsku løndum.

Ad vísu komu enir prótestantisku mørgum og miklum hlutum vel til vegar, og enn nu leggia stund á, ad færa aptur í lag ena fornu einfeldni, og heilræmi enna kristnu trúarbragda, og sameinudu vid þau bóklegar mentir hvøriar ad undanførnu høfdu trúarbrøgdunum ad so litlu gagni komid, enn þeir hafa þó hvørgi nærri nád því sér fyrirsetta takmarki; ecki altid hefir sidabót verid sameinud endurbót trúar lærdómanna; leingi eymadi medal þirra af ennar rómversku kyrkiu hleypidómum og misbrukun; hia mørgum hvørium er andvaraleysi og hálfvelgia komin í hiátrúarstad; ecki hafa siálfir enir kristnu sumir hvørjir af

látið, og það jafnvel á þessari öld, að vanbrúka sín velgiörandi trúarbrögd; Prentunar frelsi sem með endurbótinni var innleidt hafa sumir so vanþakklátlega misbrukað, að þeir hafa nýtt það til að framsetja efasemdir mót trúarbragdanna guddómlega uppruna, og leitast við að veikja og kollkasta trúarbragdanna sannindum, hvað þeim þó ecki hefir tekist, því gudleg forsjón hefir hagað því svo, að þessi þeirra vidleitni lángtum meir þénað hefir til að styrkja og efla sannleikann, þarvid hafa margir skarpvitrir sannleiks elsk-endur vakist til ýtarlegar að rannsaka þann krist-ilega lærdóm og sannfæra sig um hans inn-vortis ágiæti, hans náttúrlegu bodord, og hversu hann er samstemma mannlegri skynsemi; þessir sannfærdir um kristinndómsins guddómlega upp-runa og bodord, og hrærdir af hans anda og sannleiks elsku mótsögdu, ráku til baka og ónýttu þær efasemdir sem voru giørdar móti honum, við þau mørgu forsvarsrit er þeir útgáfu, hvar þeir leiddu fyrir sjónir þessara vanþacklátu manna ósannsøgli og sérvitríngs hleypidóma, enn leidréttu villumanna meiníngar, og sundrudu þeirri þoku hvar í þeir efasemu vóru. Fyrri sem seinni tída reónsla og sagnafrædi sýnir og san-nar, hve margt og mikid gott Jesu lærdómur hefir verkað á lønd og líd ei alleina í þeim løndum hvar hann er vidurkéndur, heldur ogso medal þeirra sem játa sig til ennar romverska

kirkju samt annara þjóda, og hvørsu hann hefir útbreidst þrátt fyrir allar þær þreingíngar undir okun og mótsagnir sem hann hefir lidid gégnum svo margar aldir; þær mørgu til raunir sem á vorum døgum eru giørdar til Christinndómsins útbreidslu medal heidinna þjóda, þared heiløg ritníng er yfirsett á hvørs túngumál, og prestar útsendir til at boda hana, vekja hiá oss glada von um sœldgun Jesu Christi játenda.



# Prentvillur.

I Formálanum.

Sidu IV línu 7 siálafri les siálfri.
— — — 17 allít l. álít.
— V — 1 slutta l. stutta.

Sidu 2 línu 25 Gud les Gudi.
— 3 — 3 kvik kendum l. kvikindum.
— — — 16 álhta l. álitu.
— 5 — 17 slo l sló.
— 6 — 2 Canaansland l. Canaanslands.
— 7 — 16 alógum l. aløgum.
— — — 21 Pa l gde l. Þá løgdu.
— 8 — 5 nundi l. numdi.
— — — 8 sinna l. sína.
— 9 — 10 afurkastum l. afurkostum.
— 10 — 17 skúrgadum l. skúrgodum.
— 17 — 29 Antiohus l. Antióchus
— 20 — 21 lónd l lønd.
— 21 — 5 Apostostata l. Apostata.
— 25 — 7 óll l. øll.
— 27 — 4 sú siderrdisspilling l. sidferdisspillinginn.
— 29 — 15 frsviljugluga l. frívilјuglega.
— 37 — 25 árd l árid.
— 39 — 7 msgum l. mørgum.
— 42 — 2 bullu l. búllu.

Sídu 22 línu 19 aptuurkalla l. apturkalla.
— — — 24 hvo l. svo.
— 43 — 22 vantar 15
— 47 — 25 vognnaár l. vogunar.

Hvad fleyra kynni ad vera ábótavant í bæklíngnum, umbidst gódfús lesari ad leidretta, og ecki misvirda, fyrir því Ritgjörfundurinn ecki var nálægur, þegar prentad var.



